22. tbl.

Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)

Verð kr. 200.

**Pétur Pétursson, þulur:**

## Margar sortir úr sama degi

8



# Skipakaup – Fjársvik – Réttarhneyksli

**Fjársvi**

Í síðustu tveimur tbl.
höfum við fjallað nokkuð
um fjársvik við skipakaup
frá Noregi. M.a. hefur
verið sagt frá því, að
hér sé um að ræða misferl
við kaup á 18 skipum og
nemi fjársvikin alls ca.
630.000.000 kr. eða u.þ
35.000.000 kr. á skip.
Svikin eru fólgin í því
að kaupendur hafa gefi
íslenskumog norskum
stjórnvöldum upp of h
og náð með þeim hætt
hærri lánum og gjald
yfirfærslum en þeim
Við höfum einnig sa
þögn dagblaða og a
fjölmiðla og treg
yfirvalda til að
upplýsingar um m
Hefur sú staðhæf
sett fram, að sk
endurnir hafi v
ítök í ríkisval
...lum og

Halldór Ásgrímsson er einn af fimm eigendum Skinneyjar h/f, Höfn í Hornafirði. Skyldu vera fleiri "væntanlegir þingmenn" í hópi þeirra sem viðriðnir eru fjárglæframál?

## 635 millj. króna baksamningur

Í síðasta tbl. sögðum við frá nýjum upplýsingum, sem okkur höfðu borist frá Þórði Björnssyni, saksóknara ríkisins, um nöfn tveggja af þeim 18 skipum, sem grunur leikur á fjársvikum hafi verið beitt við kaup á frá Noregi. Hér var um að ræða m/s Skinney frá Hornafirði og m/s Gullberg frá Seyðisfirði. Upplýsingar um nöfn eigenda þessara skipa fylgdu einnig fréttinni. Dagblöðin hafa enn ekki séð ástæðu til að hreyfa málinu, þótt fyrir liggi að hér sé um alvarleg brot að ræða eða allt að 35 milljóna fjársvik á skip að meðaltali.

4-5

# Hópuppsagnir í hraðfyrstihúsum

Verkalýðsblaðið komst nýlega á snoðir um hópuppsagnir í nokkrum frystihúsanna á Stór-Reykjavíkursvæðinu. Frystihúsin sem hér um ræðir eru Kirkjusandur, Hraðfrystistöðin í Reykjavík, Bæjarútgerð Hafnarfjarðar og Barðinn í Kópavogi.

### Geðþóttauppsagnir

Vbl. ræddi við trúnaðarmann verkakvenna á Kirkjusandi, Ásu Pálsdóttur. Í máli hennar kom fram að hér væri um 40 manns að ræða, fyrst og fremst konur, sem hefðu fengið uppsagnarbréf á kauptryggingunni.

Uppsögnin kom verkafólki á óvart. Togarar Ögurvíkur hf. Ögri og Vignir, sem lagt hafa upp afla hjá Kirkjusandi, sigla nú með aflann til Bretlands. Hér er því ekki um hráefnisskort að ræða, heldur ráða hér gróðahagsmunir útgerðarmanna. Þá skiptir engu hvort verkafólkið hafi nóg að bíta og brenna nú skömmu fyrir jól, heldur aðeins að geta hirt hámarksgróða.

Samkvæmt upplýsingum frá Bæjarútgerð Hafnarfjarðar munu a.m.k. tveir þeirra togara sem leggja upp hjá þeim, Jón Dan og Guðsteinn sigla með aflan.

### Fyrirslættir

Fulltrúar Kirkjusands hafa verið mjög tregir að gefa svör við spurningum verkafólks. Þeir hafa borið fyrir sig fiskleysi. Það stenst ekki af fyrrgreindum ástæðum. Þá

frh. á bls. 7



Kirkjusandur: Afkomu starfsfólks ógnað með atvinnuleysi.





Hér búa auðmennirnir: Þeir þurfa ekki að kvíða atvinnuleysi.

## Hungrið er eitt af vopnum víetnamska hersins í Kampútseu

6

VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Útgefandi: EIK(m-l). Pósthólf 5186 Reykjavík.
Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# Vinnum að stofnun flokksins

## — Frá fjórða landsþingi Eik(m-l)

Mistök er hægt að leiðrétta.

Á síðasta landsþingi sínu í febrúar 1978 lýstu Einingarsamtökin yfir stofnun nýs verkalýðsflokks - kommúnistaflokks - innan tveggja ára.

Við það hefur ekki verið staðið vegna gallaðra hugmynda um hvernig að því skyldi farið og vegna lítillar fjöldastefnu samtakanna. Einingarsamtökin hafa fremur einangrast frá fólki en hitt. Við vinnum að því að rjúfa einangrunina og leiðrétta villur í starfi og stefnu. 3. landsþingið lagði rangt mat á stöðu EIK(m-l) og taldi samtökin ráða yfir kommúnískri stefnu við ísl. aðstæður, yfir réttum starfsháttum og nothæfri aðferð við að samfylkja fólki til baráttu.

Þáttaka Einingarsamtakanna í framsækinni baráttu t.d. í Andófi - 79 og stuðningur þeirra t.d. við farmenn og hreyfinguna gegn fækkun starfsfólks á ríkisspítölum sýnir að EIK (m-l) hafa náð árangri. En við höfum beitt gallaðri stefnu, gölluðum starfsháttum - og verðum að vinna að því að leiðrétta og bæta þessi atriði - þá næst betri staða í verkalýðshreyfingunni og meðal fjöldans.

Eflum fjöldastarfið.

EIK (m-l) munu ekki stofna kommúnistaflokkinn á þessu ári. Til þess eru þau og framsækin hreyðing vanbúin.

Það eru ólíkar skoðanir uppi í Einingarsamtökunum um hvenær unnt sé að stofna raunverulegan verkalýðsflokk og hvaða eiginleika hann skuli uppfylla í ýmsum atriðum.

Þróun róttækrar hreyfingar á Íslandi og getuleysi verkalýðshreyfingarinnar minnir á hve brýn stofnun verkalýðsflokksins er í raun og veru. Einingarsamtökin verða að vera driffjöðurin í því starfi og þau eru einhuga um að slíkur flokkur skuli ráða yfir marx-lenínískri stefnu aðlagaðri að ísl. aðstæðum og yfir lýðræði og miðstjórn í innra starfi. Marx-lenínísk hreyfingin verður að hafa náð fótfestu innan verkalýðshreyfingarinnar og hún þarf að sameina kommúnista sem fyrst.

Það er matsatriði hvenær flokksstofnunin sjálf er á dagskrá. Einingarsamtökin vinna ekki ein að henni, heldur er stofnunin afleiðing af fjöldabaráttu og markast af því að hún kemur verkalýð og annarri alþýðu í nýja og betri baráttustöðu.

EIK (m-l) stefna markvisst að því að uppfylla kröfurnar sem við erum sammála um að gera til flokksins og starfa eftir þeirri reglu að setja hagsmuni fjöldabaráttunnar ofar ákvörðunum sem miðast eingöngu við þarfir Einingarsamtakanna.

4. landsþingið.

Einingarsamtökin héldu 4. landsþing sitt fyrir skömmu. Auk venjulegra þingstarfa samþykkti þingið leiðbeiningar um starf samtakanna. Er þar m.a. lögð áhersla á opnari starfsháttu, opnari samfylkingaraðferð og auka þátttöku samtakanna í fjöldastarfi.

4. landsþingið samþykkti almenna stjórnmálaályktin og ályktun um sameiningu marx-lenínista, (þær munu báðar birtast í Vbl.).

4. landsþingið kaus nýja miðstjórn og mun hún skipta með sér verkum.

15.nóv.

(Unnið úr ályktun 4. landsþingsins um uppbyggingu kommúnistaflokksins.)

A.T.G.



# Kjósum engan kauprånsflokkanna

## Almenn stjórnmálaályktun Eik(m-l)

Núverandi pólitískt og efnahagslegt ástand einkennist af upplausn og óvissu. Svonefnd "vinstri" stjórn féll fyrst og fremst vegna þess, að stjórnarflokkarnir voru um margt ósammála eða áttu ekki til svör við því, hvernig bregðast skuli við dýpkandi kreppu. Minnt er á, að þau svör geta aldrei þjónað hagsmunum launafólks og atvinnurekenda samtímis.

Lið hafa skipst þannig í kosningabaráttunni, að annars vegar standa Sjálfstæðisflokkur, Framsóknarflokkur og Alþýðuflokkur, auk samtaka atvinnurekenda, sem vilja koma rothöggi á verðbólguna með stórfelldri kjaraskerðingu, m.a. með lögbindingu kaupgjalda og verðlags. Þessir flokkar hafa ekki sömu tök á að ráða stefnu verkalýðshreyfingarinnar og Alþýðubandalagið.

Hins vegar stendur Alþýðubandalagið. Stefna þess er að ná fram hægfara hjöðnun verðbólgunnar. Því markmiði hyggst flokkurinn ná með þjóðlegum kapítalisma og ríkisrekstri stórra greina atvinnulífsings. Flokkurinn vill "frið" á vinnumarkaðinum og minni kjaraskerðingu hinna lægst launuðu. Það er Alþýðubandalagið sem mótar öðrum fremur þá stefnu launasamtakanna, að ná aftur a.m.k. hluta kaupmáttarins frá 1977. En samtímis er boðuð gervilaunajöfnun sem felst í því að skerða verðbætur á meðallaun í stað þess að stórhækka grunnlaun hinna lægra launaðra.

Munurinn á þessum tveimur liðum er ekki fólginn í því hvernig verja megi launafólk fyrir stórfelldri kjaraskerðingu, heldur í því, hve hratt kjaraskerðingin á að fara fram. Munurinn er ekki fólginn í því að berjast vel eða illa gegn arðráni erlendra fyrirtækja á Íslandi, heldur í því, hvernig eignaraðild erlendra fyrirtækja skuli háttað. Þannig mætti lengur telja.

---

Fréttatilkynning

# Dómar í Tékkóslavakíu

Fallnir eru dómar í máli sex manna í Prag í Tékkóslóvakíu. Sexmenningarnir voru handteknir ásamt fjórum öðrum. Sakargiftir voru þær einar, að fólkið hafði undirritað Mannréttindaskjal ´77 - Charta ´77.

Réttarhöld fóru fram fyrir luktum dyrum. Blaðamönnum, ættingjum og vinum hinna ákærðu var meinaður aðgangur að réttarsalnum. Dómarnir í Prag eru enn eitt dæmið um það, hvernig lýðréttindi eru fótum troðin í Tékkóslóvakíu, landi, sem er hersetið af herjum sovétska heimsvaldasinna og býr við fasískt stjórnarfar að sovétskri mynd.

Einingarsamtök kommúnista (m-l) mótmæla harðlega dómunum í Prag og krefjast þess, að hinum dæmdu verði tafarlaust sleppt úr haldi. Mikilvægt er, að sem flestir stuðningsmenn lýðréttinda láti í sér heyra og rétti þannig mannréttinda og frelsishreyfingunni í Tékkóslóvakíu hjálparhönd.

Handtökurnar og dómarnir í Prag eru merki um, að mannréttindahreyfingunni í Tékkóslóvakíu vex fiskur um hrygg og ótti stjórnvalda vex í réttu hlutfalli við styrk hreyfingarinnar. Fullan stuðning við Charta´77.

Einingarsamtök kommúnista
(Marx -Lenista)

f.h. framkvæmdanefndar
miðstjórnar AGH

# Fréttatilkynning frá Eik(m-l)

4. landsþing Einingarsamtaka kommúnista (m-l) ályktar, að sameining kommúnista og framsækinna í ein marx-lenínisk samtök sé brýnt hagsmunamál verkalýðsins í landinu.

Fyrir rúmum 3 árum settu EIK(m-l) fram svokallaðan sameiningargrundvöll og háðu harða baráttu við Kommúnistaflokk Íslands/ML um hann og þann grundvöll, sem KSML stóð á er þau voru stofnuð. Í ársbyrjun 1978 höfðu EIK(m-l) ótvírætt náð því að vera forystuafl í sameiningu marx-lenínista á Íslandi. Frá þeim tíma bera EIK(m-l) höfuðábyrgðina á því að sameining skuli ekki hafa farið fram.

Fyrir utan EIK(m-l) er þetta fólk einkum að finna í KFÍ/ML, hjá óflokksbundnu fólki og fólki tengdu Alþýðubandalaginu, en það eru hópar, sem eru ekki síður mikilvægir, þó KFÍ/ML standi okkur næst.

4. landsþingið vill leiðrétta þessar starfsaðferðir og telur að fyrsta skrefið sé sameining KFÍ/ML og EIK(m-l) og annarra framsækinna afla.

Það er mat 4. landsþingsins, að nú þegar beri KFÍ/ML og EIK(m-l) að hefja markvisst sameiningarstarf. Við setjum engin önnur skilyrði en þau, sem felast í markmiði sameiningar, þ.e. stofnun samtaka, sem séu marx-lenínísk bæði að stefnu og starfsháttum. Þar af leiðir, að eining verður að skapast um aðalatriði stefnu, skipulags og starfsaðferða. Við teljum ekki að mikið vanti upp á til að svo verði, og bendum á leið samvinnu samtakanna tveggja í starfi meðal fjöldans, sem vænlegustu leiðina til að jafna núverandi ágreining.

Það er álit 4. landsþings EIK(m-l) að staða framsækinnar hreyfingar og þá sérstaklega EIK(m-l) og KFÍ/ML sé slík að önnur atriði, s.s. forsaga samtakanna, sé ekki lengur skilyrði fyrir sameiningu, heldur sjálfsagt framhald sameiginlegs fjöldastarfs, opinskárrar gagnrýni og sjálfsgagnrýni og gagnkvæmrar virðingar.

4. landsþing EIK(m-l)

# Eik(m-l) halda kosningafund

EIKm-l halda kosningafund laugardaginn 24. nóv. n.k. að Hótel Esju. Fundurinn verður í fundarsal á 2. hæð, og hefst kl. 2 eh.

Fundarefni verður m.a. staðan í kjaramálum.

Til fundarinns verður boðið fulltrúum frá KFÍ/ML, Fylkingunni, Alþýðubandalaginu, ásamt nokkrum talsmönnum verkalýðsfélaga og baráttusinnum sem staðið hafa í fararbroddi í verkalýðsbaráttu undanfarna mánuði og ár.

EIKm-l hvetja alla sem kynnast vilja stefnu kommúnista til að mæta. Við lofum líflegum og skemmtilegum fundi.

Munið: Laugardagur 24. nóv. kl. 2 eh. að Hótel Esju.

# Reglugerð um stéttasamvinnu




Nýlega var gefin út reglugerð "um samráð stjórnvalda við samtök launafólks, bænda og atvinnurekenda".

Meginverkefni samráðsnefndar skulu m.a. vera:
"Að ræða meginþætti í efnahagsmálum og helstu efnahagsmarkmið ríkisstjórnarinnar frá ári til árs og til lengri tíma, í því skyni að leggja grundvöll að samræmdum ákvörðunum á sviði opinberra fjármála, peninga- og lánamála, lífeyrismála og verðlagseftirlits af opinberri hálfu og á sviði kjaramála af hálfu aðila vinnumarkaðarins.

Að fjalla um þjóðhagsfjárfestingar og lánsfjáráætlanir, tekjustefnu og forsendur þeirra."

Þessi reglugerð er ein af afurðum Ólafslaganna svo nefndu. Stjórnarflokkarnir lögðu allir áherslu á að efla þyrfti samráð, og það sama gerðu helstu forkólfar verkalýðshreyfingarinnar.

## Til hvers samráð?

Þessi reglugerð er merki um aukna stéttasamvinnu, ein af afleiðingum vinstri stjórnarinnar sálugu. Samráðinu er ætlað ásamt fleiri meðölum, að múlbinda verkalýðshreyfinguna og gera hana samábyrga í rekstri auðvaldsþjóðfélagsins, verkalýðshreyfingin á ásamt fleirum að bera ábyrgð á stefnumótun í hinum ýmsu greinum þjóðarbúskaparins. Eða skyldi ekki bág staða þjóðarbúsins bera á góma á samráðsfundum, aðilar vinnumarkaðarins verði þar af leiðandi að sýna ábyrgð og gleyma sér ekki í kröfupólutíkinni. Maður sér fyrir sér hagfræðinga ríkisvaldsins, verandi púngsveittir að sannfæra verkalýðsforingjana um hrikalega stöðu og vaxandi erfiðleika þjóðarskútunnar.

Samráðin veita verkafólki ekki meiri þjóðfélagsleg völd. Þrátt fyrir samráð er félagsleg þjónusta skorin niður, vísitölubætur skertar og verðmæti flutt í stórum stíl úr vasa vinnandi fólks í pyngju þeirra ríku.

Nei samráðin eru ein af fjölmörgu ráðum yfirstéttarinnar til að slá vopnin úr höndum okkar, láta okkur halda að við ráðum einhverju sem máli skiptir í gegnum þau og gera okkur samábyrg svo við þegjum.

Ragnar.




Starfsfólk sýndi hug sinn í málinu með því að fjölmenna á fundinn á Sögu. Myndin sýnir hluta fundargesta.

# Fátt um svör hjá ráðamönnum

Félög starfsfólks á sjúkrahúsum gengust fyrir fundi um fyrirhugaða fækkun starfsfólks Ríkisspítalanna þann 5.nóv. s.l. Þar sem langt er liðið frá fundinum verður dagskrá hans ekki rakin hér, heldur aðeins drepið á nokkur atriði. Fundarsóknin sýndi ljóslega að starfsfólkið lætur sig þetta mál miklu varða, enda er um atvinnuöryggi og starfsskilyrði þess að tefla.

Á fundinum urðu allfjörugar umræður og tóku margir til máls, bæði starfsfólk og eins gestir fundarings, heilbrigðisráðherra, -ráðuneytisstjóri og fulltrúar úr stjórnarnefnd ríkisspítalanna. Fram kom nokkuð mismunandi mat, starfsfólksins annars vegar og hins vegar yfirmanna heilbrigðisherfisins, á því hvernig ástandið í starfsmannahaldi spítalanna er. Starfsfólkið taldi ástandið á ýmsum stofnunum mjög slæmt, og að brýna nauðsyn bæri til að fjölga starfsfólki svo sinna mætti þörfum sjúklinga sómasamlega.

Yfirmennirnir vildu hins vegar gera minna úr þeim vanda, sem fækkun starfsfólks hefði í för með sér.

Vandinn væri þó vissulega til staðar og brýn þörf á að auka fjárveitingu til heilbrigðiskerfisins.

Menn voru heldur ekki á einu máli um hver bæri ábyrgðina t.d. sagði Magnús Magnússon ráðherra að heilbrigðisráðuneytið hefði ætíð óskað eftir fleiri stöðum á sjúkrahúsin en fjárveitingavaldið hefði hindrað það. Páll Sigurðsson ráðuneytisstjóri fullyrti að fjármálaráðherrar, hvar í flokki sem þeir stæðu hefðu alltaf viljað spara í heilbrigðiskerfinu. Sigurður Þórðarson fulltrúi fjármálaráðuneytisins í stjórnarnefndinni taldi hins vegar að mikilvæg orsök þess, að ekki hefði fengist meira fjármagn til heilbrigðismála væri hvernig starfsfólkið hefði hagað málflutningi sínum !!!!

Ítrekaðar tilraunir voru gerðar til að fá ráðherra eða stjórnarnefndina til að svara þeim spurningum sem starfsfólk telur mikilvægastar, þe. hvar er ætlunin að fækka stöðum og hvernig á að fara að því. Var fátt um svör hjá ráðamönnum, þeir viku sér undan að svara en reyndu þess í stað að leiða umræðuna inn á aðrar brautir. Þessum spurningum er því enn ósvarað.

HVAÐ ER FRAMUNDAN ?

Á fundinum kom fram, að stjórn BSRB samþykkti 2.nóv. að setja á stofn nefnd " til að gera ítarlega könnun á heilbrigðisþjónustunni í því skyni að fá fram raunhæfa mynd af þörf sjúkrahúsa þjóðarinnar fyrir starfsmenn". I nefnd þessari eiga að sitja fulltrúar frá öllum sviðum heilbrigðisstarfsseminnar. Starfsmannafélagið Sókn mun þó ekki eiga sæti í nefndinni þótt væntanlegur niðurskurður muni bitna einna harðast á félögum þess. M.a. vegna þessa telur starfshópurinn, sem stóð að fundinum mikilvægt að halda starfinu áfram, en fagnar að sjálfsögðu að fleiri skuli ætla að taka upp þessi mál. Helstu verkefnin framundan eru:

– að knýja fram svör við fyrrnefndum spurningum.
– að efla baráttuna gegn öllum fækkunum með því að taka málið upp í félögunum.
– að fylgjast með breytingum á starfsmannahaldi og vinnuálagi á deildum sjúkrahúsanna. -fréttaritari

# SFR var ekki meðal fundarboðenda

Það vakti athygli okkar að á meðal boðenda til fundarins um málefni ríkisspítalanna var ekki að finna nafn Starfsmannafélags ríkisstofnana (SFR).
Gunnar Gunnarsson hjá SFR kvað félagið ekki hafa stutt fundarboðið vegna þess að metið hafði verið svo að ílla væri að fundinum staðið. Aðspurður kvaðst hann ekki hafa breytt þessu mati eftir fundinn. Hann kvaðst hafa fundið margt athugavert við málflutning talsmanna þeirra félaga sem til fundarins boðuðu.

Þá sagði Gunnar að SFR ætti ennþá aðild að samstarfsnefndinni, enda þótt SFR hefði ekki verið meðal fundarboðenda. Hann kvað SFR styðja nefndina og að hann sæi ekkert athugavert við það að það fólk sem nú starfaði að þessum málum í samstarfsnefnd félaganna kæmi með í starfshóp þann sem SFR hefði lagt til að BSRB setti á fót til að vinna að þessu máli.



# Skipakaup — Fjársvik — Réttarhneyksli

63 millj. ba

*

## Fréttamat dagblaðanna

Í síðasta tbl. sögðum við frá nýjum upplýsingum, sem okkur höfðu borist frá Þórði Björnssyni, saksóknara ríkisins, um nöfn tveggja af þeim 18 skipum, sem grunur leikur á fjársvikum hafi verið beitt við kaup á frá Noregi. Hér var um að ræða m/s Skinney frá Hornafirði og m/s Gullberg frá Seyðisfirði. Upplýsingar um nöfn eigenda þessara skipa fylgdu einnig fréttinni. Dagblöðin hafa enn ekki séð ástæðu til að hreyfa málinu, þótt fyrir liggi að hér sé um alvarleg brot að ræða eða allt að 35 milljóna fjársvik á skip að meðaltali. Hvar eru rannsóknarblaðamennirnir þessa stundina? Hvað með Dagblaðið frjálsa og óháða, sem í síðustu viku sló 3-4 milljóna misferli á Siglufirði upp á forsíðu? Vbl. fullyrðir enn, að þeir sem aðild eiga að kaupum á þessum 18 skipum ráðskist með fréttaflutning dagblaðanna! Það virðist sem blöðum og ríkisfjöðmiðlunum sé hreinlega bannað að fjalla um málið. Og þagnarsamsærið ætli seint að rofna.

## Hverjir eru svo áhrifamiklir?

Okkur hefur ekki tekist að grafa upp nöfn fleiri skipa og kaupenda þeirra. En við erum nokkru nær um eigendur Skinneyjar og Gullbergs. Þeir Ásgrímur Halldórsson, framkvæmdarstjóri og sonur hans, Halldór Ásgrímsson, fyrrum alþingismaður Framsóknarflokksins með meiru, tveir eigenda Skinneyjar, eru báðir áhrifamenn í Framsóknarflokknum og SÍS. Það vekur einnig sérstaka athygli okkar, að Halldór á sæti í bankaráði Seðlabanka Íslands, skv. upplýsingum bankans, en gjaldeyriseftirlit Seðlabankans hefur farið með athugun skipakaupamálanna ásamt skattrannsóknarstjóra og rannsóknarlögreglunni nú síðast. Hjá rannsóknarlögreglunni fer Guðmundur Skaftason með rannsókn þessara tveggja mála, eins og Vbl hefur áður sagt frá. Hefur Guðmundur skarfað mikið fyrir kaupfélögin og SÍS og ku vera dyggur framsóknarmaður. Þá hafa Vbl. borist þær upplýsingar, að Guðmundur sé formaður ríkisskattanefndar og skattsektanefndar. Frá bæjardyrum Skinneyjareigenda ætti málið að vera í góðum höndum. Um eigendur Gullbergs höfum við litlar upplýsingar til viðbótar fyrri fréttum. Tveir af eigendum skipsins, þeir Ólafur M. Ólafsson og Þorbergur Þórarinsson, forstjórar, eru að sögn heimamanna á Seyðisfirði, nokkurs konar smákóngar, eiga staðinn sem kallað er. Hjörtur Hjartarson, einn eiganda til viðbótar á sæti í bæjarstjórn Seyðisfjarðar og hefur verið forseti bæjarstjórnar.

ADIÐ, MIÐVIKUDAGUR 14. MARZ 1979

### Tveir lögmenn hljóta dóm í Grjótjötunsmáli

ORGUNBLAÐIÐ fékk í gær ftirfarandi frétt frá sakadómi eykjavíkur um dóminn í Grjótjötunsmálinu og forsendur hans. Dóminn kvað upp Haraldur Henrysson sakadómari:

Kveðinn hefur verið upp í sakadómi Reykjavíkur dómur í máli ákæruvaldsins gegn Knúti Bruun og Þorfinni Egilssyni, sem höfðað var með ákæru, dagsettri 28. janúar 977. Í ákæru var ákærðu gefinn að ök fjárdráttur eða umboðssvik með ví að hafa í sambandi við kaup á anddæluskipinu m.s. Jörpeland íðar m.s. Grjótjötunn) í Noregi á rinu 1974 komist yfir til eigin ðstöfunar 400.000 norskar krónur, e. Þorfinnur n.kr. 300.000 og nútur n.kr. 100.000. Þorfinnur om fram sem skipamiðlari við aupin en Knútur var stjórnarformaður og framkvæmdastjóri Sandkips h.f., sem var kaupandi skipsns. Í ákæru var Knútur einnig kærður fyrir ranga skýrslugjöf, eð því að hafa í umsóknum um heimild til erlendrar lántöku og um gjaldeyri staðhæft að kaupverð hafi verið n.kr. 2.8 milljónir, en í ákæru var talið að hið raunverulega kaupverð hefði verið n.kr. 2.4 milljónir.

Í dóminum var ekki talið sannað gegn neitun ákærða Knúts, að hann hefði staðið að samningum um umboðslaun til sín við gerð kaupsamnings í júlí 1974 né hafi hann vitað um fjárhæð umboðslauna til ákærða Þorfinns. Var lagður til grundvallar sá framburður hans, að hann hefði talið að umrædd greiðsla á n.kr. 100.000 til sín hafi verið nokkurs konar lokaafsláttur til kaupanda, sem greiddur var við afhendingu skipsins 9. október 1974 og hann hefði notað í þess þágu. Lagði hann fram reikninga að fjárhæð rúmlega 50 þúsund norskra króna vegna skipsins, sem hann kvaðst hafa greitt af umræddu fé. Að því leyti, sem ákærði stóð ekki skil á fyrrnefndum n.kr. 100.000 til Sandskips h.f. var hann talinn hafa gerst sekur um fjárdrátt skv. 247 gr. almennra hegningarlaga nr 19,1940. Hann var hins vega sýknaður af ákæru um rang skýrslugjöf þar sem ekki var tali nægilega sannað að hann hefði vi gerð kaupsamnings vitað u samninga við seljendur u greiðslur til ákærðu.

Ákærði Þorfinnur var í dóminu talinn sekur um fjársvik gagnvar kaupanda skipsins með því að haf samið við seljanda um og tekið vi umboðslaunum að fjárhæð n.k 300.000, sem verið hafði óeðlilega h miðað við kaupverð skipsins. Var o talið, að ráða mætti af gögnu málsins og framburðum, að upphæ umboðslauna hafi ráðið nokkru u það hvaða kaupverð var sett kaupsamning. Ákærða hafi hloti að vera ljóst, að hin háu umboðs laun yrðu, a.m.k. að einhverju leyti á kostnað Sandskips h.f., en þess hefði hann leynt kaupandann í þv skyni að hagnast sjálfur. Þá var o talið sannað, þrátt fyrir neitu ákærða, að hann hefði um það leyti sem kaupsamningur var gerður einnig samið um greiðslu á n.kr 100.000 til Knúts og var litið á þa samninga sömu augum og samning ákærða um umboðslaun sjálfum sé til handa. Var atferli ákærða tali varða við 248. gr. hegningarlag anna.

Ákærði Knútur var dæmdur ti að sæta fangelsi í 3 mánuði o ákærði Þorfinnur fangelsi í mánuði. Þá voru báðir dæmdir ti að sæta sviptingu á málflutning réttindum í 3 ár, Knútur fyri Hæstarétti og héraðsdómi og Þor finnur fyrir héraðsdómi. Að lokun voru þeir dæmdir til að greiða málskostnað, þar með talin málsvarnarlaun til skipaðra verjenda sinna, Jóhannesar L.L. Helgasonar hrl. og Jóns Finnssonar hrl., kr. 250.000 til hvors um sig.

UMBOÐSMENN.

Síðasta hálfan mánuð eða svo höfum við ítrekað reynt að fá upplýsingar um fleiri aðila sem kunna að tengjast skipasvindlinu Útilokað hefur reynst að ná í Þorfinn Egilsson, lögfræðing, sem nýlega var dæmdur í Grjótjötunsmálinu, en samkvæmt fréttatilkynningu frá sakadómi um dóminn, kom Þorfinnur fram sem skipamiðlari við kaup á Grjótjötni. Hjá fiskveiðasjóði Útvegsbanka Íslands, sem lánar út á skipakaup var okkur gefið upp nafn á öðrum umboðsmanni,sem hefur haft með skipakaup frá Noregi að gera, það er Benedikt Sveinsson, sem einnig er lögfræðingur. Okkur hefur ekki tekist að afla nánari upplýsinga um manninn, en vitum þó að hann er sonur Sveins Benediktssonar fyrrum síldarsaltanda og stóreignamanns, sem var bróðir Bjarna Benediktssonar. Það skortir ekki tengslin inn í Sjálfstæðisflokkinn. Fiskveiðasjóður neitaði að gefa upp nöfn skipa sem Benedikt hefði haft afskipti af.

## Guðmundarmál

Tíðindamaður Vbl. leitaði aftur á náðir Þórðar Björnssonar, saksóknara ríkisins í síðustu viku. Þórður gat ekki gefið meiri upplýsingar um athugun á kaupum á Skinney og Gullbergi en síðast. Þórður gaf aftur á móti upplýsingar um tvö önnur skipamál sem saksóknari hefur haft til meðferðar. Eru það kaup á Grjótjötni, sem áður hefur verið minnst á í greininni, og á Guðmundi Re. Þórður sagði, að ákæra í svonefndu Guðmundarmáli hefði verið send sakadómi í janúar 1978. Færi Gunnlaugur Briem með málið. Taldi Þórður að málið hefði dregist hjá honum vegna anna við Geirfinnsmálið. Þórður vildi ekki láta afrit af ákærunni af hendi en leyfði tíðindamanni Vbl. að lesa hana yfir. Í henni eru kaupendur Guðmundar Re ákærðir fyrir að hafa gefið opinberum aðilum upp ca 200.000 norskra króna hærra kaupverð en það var raunverulega og svikið með því móti út lán á fölskum forsendum. Hér er um að ræða 13-14 milljónir íslenskra króna, þannig að kaupendur

# Fjármálaspilling — Í skjóli ríkisvaldsins

## Ríkisvaldið

Í ríkisvaldinu tvinnast saman valdamesti hluti borgarastéttarinnar. Ríkisvaldið er ekki bara ríkisstjórn og Alþingi, heldur líka hinar ýmsu stofnanir ríkisins. Ríkisvaldið er í stjórnum fjárfestinasjóða banka, framkvæmdastofnana o.s.frv. Ríkisvaldið er skipulagt í löggæslu og réttarkerfi.

Við þetta bætist að löggjöfin beinlínis hyglar burgeisum og bröskurum, með því að gera þeim kleyft að skipuleggja gróðabrask sitt innan kerfisins. Kaupi útgerðarmaður skip, fær hann lán úr Fiskveiðisjóði til langs tíma á lágum vöxtum ca. 15%. Hvar fær verkamaður lán til langs tíma á slíkum vildarkjörum, t.d. til húsbyggingar ? Hvergi.

Það stendur yfirleitt ekki á því að mál smáþjófa og afbrotamanna séu tekin fyrir í réttarkerfinu. Mál hinna stóru eru lengur á leiðinni í gegn. Er þetta einleikið? Nei, þetta er reglubundið. Mörg stórmál firnast vegna "seinagangs". Er "seinagangurinn" til þess gerður að viðkvæmar stoðir borgarastéttarinnar verði ekki fyrir hnjaski? Það er hægt að líta svo á.

## Ríkisvald og pólitík

Nú er því haldið fram að ríkisvaldinu sé stýrt af pólitískum flokkum sem koma og fara í valdastóla. Er þetta rétt ? Alls ekki. Engu að síður er ríkisvaldið pólitísk stofnun. Það gætir hagsmuna þeirrar þjóðfélagsstéttar sem ræður ríkjum, þ.e. auðstéttarinnar. Borgaraflokkarnir eiga allir sína fulltrúa í ríkisvaldinu, enda eru flokkarnir sem slíkir fulltrúar auðhagsmuna. Þannig er t.d. bankaráð Seðlabankans skipað flokkafulltrúum, yfirstjórn Framkvæmdastofnunar ríkisins o.s.frv. eru það einnig. Í þessum ráðum og stjórnum eru teknar ákvarðanir og miklum fjármunum ráðstafað. En - hver og fyrir hvern?

Situr ekki Halldór Ásgrímsson í bankaráði Seðlabankans? Jú, hann gerir það. Skyldi hann ekki vita að það er lögbrot að gefa upp rangt kaupverð á skipum til þess að fá hærra lán hjá Fiskveiðisjóði. Og eitthvað hefur gjaldeyrisdeild Seðlabankans haft að athuga við skipakaup hans þar sem svo langan tíma hefur tekið að rannsaka einmitt skipakaup Halldórs hjá bankanum. En nú er mál þetta komið til rannsóknarlögreglunnar og hún sett það í hendur lögfræðingi, sem er kaupfélagsvinur Halldórs og hinna í fyrirtækinu á Höfn.

Þetta dæmi um pólitíska stöðu og tengsl ólíkra þátta ríkisvaldsins sýnir hversu rotið þetta auðvaldskerfi er.

Á sama tíma og ríkisvaldið boðar niðurskurð og sparnað upp á hundruð milljóna í skólakerfi landsmanna, eru nokkrir aðilar búnir að svindla til sín ámóta upphæð vegna þess að þeir hafa til þess aðstöðu og samþykki. Ég segi samþykki á meðan glæpirnir eru ekki opinberaðir og dæmt í málunum.

## Ríkisvaldið og kosningar

Þingkosningar eru sú




Guðmundar Re eru tæplega hálfdrættingar á við kaupendur þeirra 18 skipa sem við höfðum til þessa fjallað um. Fjársvik upp á 35 milljónir hljóta að vera mun alvarlegri brot. Gunnlaugur Briem sagði Vbl. að Guðmundarmálið væri með mestu málum sem hann tæki fyrir.

- HVAÐ MEÐ VILMUND, DÓMSMÁLARÁÐHERRA OG STÓRU MÁLIN?

Ennþá heyrist ekkert frá Vilmundi þrátt fyrir hvatningarorð Vbl. Nú reynir á hvort Vimmi lætur stjórnast af skipakaupendunum, sem við staðhæfum að eigi öll helstu framleiðslutæki landsins og beiti ríkisvaldinu fyrir vagn sinn. Það er ekki tekið sömu silkihönskum á þeim óhamingjusömu einstaklingum sem fremja léttvæga þjófnaði í ölvunaræði. Þjóðfélag okkar kann tæpast önnur úrræði en loka þessa einstaklinga, sem margvísleg félagsleg vandamál hafa hrjáð frá barnæsku, inni á Litla-Hrauni.

- UPPLÝSINGASKORTUR.

Lesendur Vbl. hafa verið óduglegir við að senda okkur upplýsingar. Okkur grunar þó, að ýmsir þeirra viti eitthvað um þá menn sem við höfum nefnt í sambandi við fjársvikin. Við eigum langt í land með að fá botn í þessi 18 skipakaup. Einungis tvö dæmi hafa verið nefnd og varla að vænta að rannsóknaraðilarnir upplýsi málin.

Æ.

lýðræðishula sem auðvaldsskipulagið sveipar um sig. Á bak við tjöldin heldur rúllettan áfram að snúast. Nýir menn koma og fara í ríkisstjórn og á þingi, en sama gamla kerfið ræður ríkjum. Það er ekki með því að skipta um menn að kerfinu verður breytt.

Kerfinu verður aðeins breytt með því að skipt verði um valdastétt í þjóðfélaginu. Að þeir sem í raun skapa verðmætin fari að ráðskast með þau.

Æ







# Hvers vegna ekki skásti kosturinn?

Eflaust eru margir óvissir, hvaða kost þeir eiga að velja í næstu kosningum. Vonbrigðin hafa orðið mikil hjá mörgum stuðningsmönnum vinstri stjórnarinnar sálugu.

Sumir eygja von í sterkum meirihluta íhaldsins. Sumir vilja hafna kostningaþáttöku eða skila auðu, enn aðrir ríghalda í skásta kostinn. Bandalagið sé nú þrátt fyrir allt sá flokkur, sem minnst hafi svikið og geti dregið úr árásum hinna flokkanna á fólk.

Fyrir mér er það verra en ekkert uppgjör við vinstri stjórn að hlaupa á náðir íhaldsins. Betlibón þess til erlendra auðhringja og tilheyrandi skerðing á efnahagslegusjálfstæði landsins, tillögur þess í kjaramálunum og skattatillogur flokksins, sem fela í sér t.d. afnám tekju- og eignaskatts af félögum að andvirði 7 milljarða, finnst mér eigi að nægja til að sannfæra efasemdarmanninn.

## Skásti kosturinn —

Bandalagið er miklu meira vandamál og hefur ýmis ágæt mál á stefnuskránni fyrir kosningarnar. Það biðlar líka til okkar, þessara óánægðu.
Það lofar hernum úr landi, stuðningi við helstu kröfur verkalýðshreyfingarinnar, banni á stóriðju, niðurskurði á fáránlegu verslunarkerfi o.fl. Allt er þetta harla gott. En þetta er mér ekki nóg. Ég ætla þrátt fyrir þetta að hunsa þá alla allaballa og skila auðu.

## Hvers vegna auður seðill?

Mér finnst, að auður seðill eigi að vera rökrétt niðurstaða efasemdarmannsins. Þeir alla-ballar hafa fengið sín tækifæri. Þeir hafa sjálfir best sannað hvað þeir standa fyrir. Þeir hafa sýnt sig vera reiðubúna til að taka þátt í árásum á fólk með auðstéttinni og hinum flokkum, styðja kjararán og banna verkföll. Þeir hafa sýnst óbrúandi til orða og gerða. Þeir hafa sýnt hversu lítils virði þingstyrkur verkalýðsflokkanna svo kölluðu er. Þeir hafa sýnt okkur að það er auðstéttin í landinu og ríkisvaldið sem ráða ferðinni í öllum meginatriðum, en ekki þingið.

## Er bandalagið kauprānsflokkur?

Sem lið í baráttunni gegn verðbólgunni gekkst það m.a. inná eftirfarandi ráðstafanir:

Í des. '78 voru 3-4% af kaupinu seld gegn félagsmálapakkanum. Þeim Bandalagsmönnum datt ekki í hug að gangast fyrir þessum sjálfsögðu og ágætu réttindamálum, án þess að ganga á kaupið. Nei, pakkan eða peningana.

Næsta áhlaup var með Ólafslögunum svo kölluðu. Samkvæmt þeim átti að klípa meira af kaupinu BSRB átti að falla frá 3% hækkun gegn takmörkuðum verkfallsrétti aðildafélaga BSRB. Grunnkaup skyldi vera óbreytt til áramóta. Jafnframt þessu skyldu viðskiftakjör hafa áhrif á vísitölubætur, og vísitalan sett í 100 - með því mátti skerða bæturnar. Kjaraskerðingin er eitthvað mismunandi milli hópa, en allir launþegar finna fyrir þessu.

Þetta sýnir manni tvennt, annars vegar að flokkurinn viðurkennir að vísitölubæturnar séu ein orsök verðbólgunnar, en hins vegar, að það er stigs- en ekki eðlismunur á Abl. og hinum flokkunum.

## Abl. og samningsrétturinn

Í ræðu, sem Svavar Gestsson hélt í tilefni Ólafslaganna s.n. í vor segir hann m.a.


Samningsrétturinn tryggður
Þriðja og mikilvægasta breytingin á verðbótakafla frumvarpsins felst í ákvæðinu til bráðabirgða en þar segir: „Ákvæði þessara laga breyta í engu rétti til að gerðir séu nýir kjarasamningar, jafnt um grunnlaun sem verðlagsbætur á laun.
Þetta ákvæði er afar mikilvægt að mati okkar Alþýðubandalagsmanna," sagði Svavar

Þetta er nú gott og blessað en svo tóku farmenn hann á orðinu og þá breyttist hljóðið.


● Saltfiskbirgðir eru verulegar í landinu og valda eigendum sínum svefnlausum nóttum.
● Allar líkur eru því á að deilan gæti valdið röskun á atvinnulífi verulega umfram það sem þjóðhagslegt mikilvægi deilunnar gefur tilefni til.
● Og ekki dettur okkur í hug að halda því fram að farmenn séu ofhaldnir af launum sínum.
● Það er því ekki með neinum fögnuði að Alþýðubandalagið tekur þátt í setningu slíkra laga, einkum þar sem farmenn hafa ekki séð sér fært að ganga að því sáttatilboði sem til umræðu er.
● Auk þess eru efnahagsmálin í heild ákaflega vandmeðfarin um þessar mundir, og aðrir hópar launþega hafa fallist á að axla sinn hluta af þeim byrðum sem á þarf að leggja í baráttunni við verðbólguna.

Þetta er kallað að virða samningsréttinn. Á þessum ráðstöfunum ber Abl. ekki ábyrð umfram hina flokkana, en líka jafnt á við þá.

## Abl. og stóriðjan

Það er enginn vafi, að Abl. hefur betri stefnu í þeim málum en íhaldið.

En efnahagslegt sjálfstæði er þeim ekki fremur heilagt en samnings og verkfallsrétturinn. Bandalagið setur þau skilyrði fyrir erlendri stóriðju, að meiri hluti sé í eigu íslenska ríkisins. Ef við tökum Járnblendið sem dæmi, sjáum við að þrátt fyrir þetta, hefur norski auðhrungurinn Elkem, undirtökin. Elkem hefur neirunarvald í stjórn fyrirtækisins og ræður yfir bæði mörkuðum og hráefnum. Nei, ég styð ekki Bandalagið í þessu máli, fyrr en það hafnar alfarið erlendri stóriðju.

## Hermálið

"efnahagsmálin hafa algjöran forgang". Þannig hafa þeir afgreitt hermálið.

## Fjöldabarátta og þingbarátta

Þó okkur efasemdarmanninum þyki þetta ekki geðsleg saga, er þetta samt ekki meginmálið. Afstaða Abl til þingbaráttunnar er mikilvægari og kemur einkar skýrt fram í kjörorði þess: "Kjarabæturnar verði taldar upp úr kjörkössum". (Annað kjörorð sem Bandalagsforystan ætti hiklaust að taka upp er: Herinn verður hrakinn burt með kjörkössunum, fullum af Bandalagsatkvæðum)

Í þessarri afstöðu felst, að snakkið í þinginu sé mikilvægara en barátta fjöldasamtaka, ss. stéttarfélaga, Samtaka herstöðvaandstæðinga o.fl. Litið er á fjöldasamtökin sem stoð við þingflokkinn.

Rökrétt afleiðing af þessu er svo það sem gerðist í seinustu kosningum að kratar og Abl. notuðu verkalýðshreyfinguna beint í kosningabaráttunni.

Ég er ekki á móti því að verkalýðsflokkur bjóði fram til þings. En þingið getur aldrei orðið mikilvægasti starfsvettvangurinn. Raunverulegur verkalýðsflokkur með menn á þingi á að nota þann liðsstyrk til að efla samtakabaráttuna úti þjóðfélaginu, en ekki öfugt.

## Verkalýðsflokkur og ríkisstjórn

Helsta markmið Bandalagsins með sínu starfi er aukinn styrkur og í framhaldi af því þátttaka í ríkisstjórn. Að sögn til að koma stefnumálum sínum í framkvæmd, sem sjálfssagt tekst að hluta, en þátttaka þess í ríkisstjórn er um leið tilboð um að stjórna auðvaldsbúinu betur en hinir flokkarnir megna og það getur það m.a. vegna áhrifa sinna í verkalýðshreyfingunni.

Stefnan hefur síðan í fáum orðum einkennst helst af efldri stéttasamvinnu, múlbundinna verkalýðshreyfingu auknum ríkisrekstri, tiltölulega þjóðlegri atvinnuuppbyggingu og félagslegum umbótum í bland, sérstsklega ef hægt er að "skifta" á þeim og kauphækkunum.

Mitt mat er að raunverulegur verkalýðsflokkur hvorki eigi né geti tekið þátt í ríkisstjórnum í auðvaldsþjóðfélagi. Eins og áður segir á hann fyrst og fremst að vera stoð og stytta fjöldasamtakanna og baráttu almennings og standa í fararbroddi hans.

Hann á ekki að taka þátt með yfirstéttinni og flokkum hennar og taka á sig þá ábyrgð að stjórna því þjóðfélagi sem byggt er á arðráni manns á manni, auðsöfnun mikils minnihluta þjóðarinnar á kostnað alls almennings í landinu.

Af þessum sökum öllum get ég sennilega aldrei kosið Alþýðubandalagið, og óskandi að raunverulegur verkalýðsflokkur verði kominn fram fyrir þar næstu kosningar.

Ragnar.

# Hungrið er eitt af vopnum víetnamska hersins í Kampútseu –



## Engin hungursneyð, segir Pravda

Hinn geysilegi straumur af hungruðu og vannærðu fólki frá Kampútseu yfir til Thailands eru talandi dæmi um stefnu Víetnamstjórnar. Hungrið er orðið eitt af meginvopnum hennar til þess að útrýma kampútsísku þjóðinni - talið er að um ein milljón manns hafi nú fallið fyrir byssukúlum innrásarhersins og skipulagðri hungursneyð sem skipulögð er í Hanoi.

ÚTRÝMING ER MARKMIÐIÐ

Frá vesturhluta Kampútseu streymir banhungrað fólkið - en í austurhlutanum búa nú um 200.000 innflytjendur frá Víetnam. Þeim er ætlað að taka við þeirri frjósömu jörð sem kampútseumenn hafa hrakist frá. Til þess að framfylgja þessari útrýmingarstefnu sinni hefur Hanoistjórnin sent tæplega 200.000 hermenn ásamt fjöldanum öllum af hermönnum og ráðgjöfum frá Kúbu, Sovétríkjunum og austur-Þýskalandi.

Ástralski blaðamaðurinn Neil Kelly, sem starfar við blaðið Melbourn Herald, fór nýlega inn í Kampútseu frá Thailandi. Í Battambanghéraði hitti hann fyrir fjölda fólks sem var á flótta frá hernumdu svæðunum yfir á frelsuð svæði þar sem stjórn Pol Pots ræður.

Að sögn fólksins þá flúði það víetnömsku svæðin vegna hungurs - Víetnamarnir fjarlægðu allan mat og bönnuðu bændunum að rækta jörðina. Fólkið var sannfært um að Víetnamarnir stefndu að útrýmingu þjóðarinnar.

"ENGIN HUNGURSNEYÐ" SEGIR PRAVDA

-Það sveltur enginn í Kampútseu segir Pen Sovan, næst æðsti maður Heng Samrinstjórninni í viðtali við sovéska blaðið Pravda. " Allt tal um hungursneyð er vestrænn og kínverskur áróður - og hjálpin frá alþjóðlegum samtökum er notuð sem skálkaskjól fyrir yfirráðaseggi og heimsvaldasinna til að styðja gagnbyltingarhópa " að sögn Pen Sovan.

Þessi afstaða Heng Samrinstjórnarinnar skýrir vel hvers vegna það hefur gengið svo erfiðlega að ná samkomulagi við hana um dreifingu nauðþurfta til sveltandi fólksins. Þessi stjórn eins og allir vita sem vilja er leppstjórn Víetnam og meðábyrg í útrýmingarherferðinni. Hún hefur reynt að koma í veg fyrir að alþjóðlegu hjálparstofnanirnar gætu komið hjálpinni áleiðis og krafist þess að fá að sjá um dreifinguna sjálf.

Hvert það leiðir vitnaðist nýlega þegar að bandaríska vikuritið Newsweek afhjúpaði að hjálparsendingar frá UNICEF til Kampútseu fundust í Hanoi! Blaðafulltrúi Hjálparstofnunar Kirkjunnar í Noregi, Svein Tornå, hefur einnig sagt að ljóst sé að hluti af hjálpinni sé notað til að fæða víetnamska innrásarherinn.

Krafan um að hjálparstofnanirnar hafi umsjón með dreifingunni er því réttmæt. Flóttafólkið sem streymir til Thailands segir sína sögu og gerir lítið úr ásökunum á hendur Kína og vestrænna ríkja. Það eru víetnömsk stjórnvöld - með fullri hjálp Sovétríkjanna, sem eru ábyrg fyrir dauða hundruð þúsunda Kampútseumanna. Krafan um að víetnamski herinn verði kvaddur heim er því höfuðatriði þessa máls sem stendur.

Há.

# Um alþjóðagjaldeyrissjóðinn og Alþjóðabankann

Í síðasta tbl. birtist frétt um ársfund Alþjóðabankans og Alþjóðagjaldeyrissjóðsins í Júgóslavíu nú nýverið. Vbl. hafa borist nákvæmari upplýsingar un fundinn og helstu markmið sjóðsins o. fl. frá Elíasi Davíðssyni, kerfisfræðingi. Birtast þessar upplýsingar hér á eftir með millifyrirsögnum Vbl.

Ársfundurinn.

Ársfundur Alþjóða gjaldeyrissjóðsins og Alþjóðabankans var haldin í Júgóslavíu fyrir nokkrum vikum. Fulltrúar Íslands á þessum fundi voru eftirfarandi:

1. Svavar Gestsson, fyrrv. viðskiptaráðh.
2. Tómas Árnason, fyrrv. fjármálaráðherra.
3. Davíð Ólafsson, einn af seðlabankastjórum.
4. Jón Sigurðsson, forstjóri Þjóðhagsstofnunar.
5. Sigurgeir Jónsson, aðstoðarbankastjóri Seðlabankans.
6. Valgeir Ársælsson, varaforseti Alþjóðabankans fyrir Norðurlöndin.
7. Gísli Blöndal, varaforseti Alþjóðagjaldeyrissjóðsins fyrir Norðurlöndin.

Á þessum fundi voru engar meiri háttar ákvarðanir teknar. Þar gafst fulltrúum frá 130 þjóðríkjum tækifæri til að láta ljós sitt skína og blanda saman geði við háttsetta embættismenn voldugra ríkja.

Markmið Alþjóðagjaldeyrissjóðsins.

Markmið Alþjóða gjaldeyrssjóðsins er að stuðla að afnámi allra hindrana sem þjóðríki geta lagt á streymi fjármagns milli landa. Ráðandi öfl í sjóðnum eru auðvita heimaríki stærstu fjölþjóðaauðhringjanna, enda eru allar slíkar hindranir eitur í þeirra beinum.



Elías Davíðsson.

Nýjar reglur, sem sjóðurinn hefur sett og hafa þegar tekið gildi, kveða á um miklu nánari "samvinnu" milli fulltrúa Sjóðsins og stjórnsýslu aðildarríkja. Fulltrúum aðildarríkja er fyrirskipað að ræða a.m.k. einu sinni á ári við sérfræðingahóp frá Sjóðnum um efnahagsmál. Hópurinn frá Washington ( höfuðstöðvar Sjóðsins ) skilar síðan skýrslu til yfirmanna sinna, sem geta síðan tekið afstöðu til "lánstrausts" viðkomandi ríkis og jafnvel krafist af ríkinu breytinga á efnahagsstefnu sinni, ef yfirmenn Sjóðsins telja að stefnan brjóti í bága við hugmyndafræði Sjóðsins.

Afskipti af efnahags málum um á Íslandi.

Í fréttabréfi sínu frá 6. ágúst s.l. (IMF Survey) er efnahagslíf Íslands tekið fyrir. Úttekt Sjóðsins er svipuð og sú sem sérfræðingar OECD gera við og við. Lögð er áhersla á það, að orkulindir Íslands eru enn vannýttar (aðeins 10% af orkulindunum eru nýttar enn) og stóriðja noti yfir 50% af raforkuframleiðslu landsins í þágu útflutnings. Ekki er minnst á það, að stóriðja þessi er að mestu í erlendri eigu og umdeild mjög. Lögð er áhersla á mikilvægi þess að minnka fiskveiðisókn. Myndin, sem sérfræðingar Alþjóða gjaldeyrissjóðsins mála af efnahagsástandi landsins, sýnir hvað vakir fyrir aðstandendum Sjóðsins: Nýta skal með "aðstoð" stóriðjufyrirtækja þá orku sem enn er ónýtt í landinu.

Vaxtastefna Alþjóða gjaldeyrissjóðsins ( sem hér er nú í framkvæmd. innsk. Vbl.) hefur gengið undir nafninu " raunvaxtastefna". Þessi stefna er hagstæð fyrir alla, sem geta gengið að alþjóðlegum lánamörkuðum (t.d. erlend og íslensk fyrirtæki með erlend útibú). Þessi stefna er hins vegar tilræði við innlent atvinnulíf og þungbær fyrir almenning, sem ætlar sér að kaupa húsnæði.

Það er lofsvert framtak verkalýðshreyfingarinnar að afhjúpa þessa stefnu. Er eðlilegt og nauðsynlegt að rekja þessa stefnu til höfuðsmiða hennar, til erlendra höfuðstöðva alþjóðlegs auðvalds.

Samskiptin við Svavar.

Undirritaður hefur verið spurður við og við, hvort tilraunir hans um að fá gögn um samskipti Íslands við Alþjóðagjaldeyrissjóðsins, hafi borið árangur. Svarið er NEI. Fyrrv. Viðskiptaráðherra,

frh. á bls. 7

viðhorf

# Frelsi auðhringa í auðvaldsviðskiptum

Þann 16. október sl. sagði Morgunblaðið lesendum sínum frá ársfundi Alþjóðabankans og Alþjóðagjaldeyrissjóðsins og birti m.a. viðtal við Davíð Ólafsson, seðlabankastjóra, sem fjallaði um fundinn og helstu markmið þessara stofnana. Í viðtalinu er eftirfarandi m.a. haft eftir seðlabankastjóranum: "Sagði hann að einmitt hér væri ljós sú mikla þýðing sem starfsemi stofnunar eins og Alþjóðagjaldeyrissjóðsins hefði haft undanfarna áratugi, með ráðgjöf og fjárhagsstuðningi hefði stofnunin átt sinn mikla þátt í að auka og viðhalda frelsi í milliríkjaviðskiptum, sem aftur hefði leitt til aukinnar verkaskiptingar milli þjóða, sem verið hefði ein meginforsendan fyrir þeim stórkostlegu efnahagsframförum, sem orðið hefðu á undanförnum áratugum í öllum heimshlutum. Sagði Davíð Ólafsson að menn settu von sína á það alþjóðasamstarf sjóðsins sem tryggingu fyrir áframhaldandi frjálsum milliríkjaviðskiptum og væri það athyglisvert fyrir okkur Íslendinga með svo tiltölukega einhæfan útflutning"

Svo mörg voru þau fögru orð. En hvernig birtist ráðgjöfin, fjárhagsstuðningurinn, frelsið og framfarirnar í þeim löndum sem "njóta velvildar" Alþjóðagjaldeyrissjóðsins. Eftirfarandi upplýsingar úr fréttabréfum sjóðsins gefa nokkra innsýn í það.

IMF (Alþjóðagjaldeyrissjóðurinn) FRÉTTIR.

20.8.´79 KENYA

IMF veitti Kenya yfirdráttarheimild ("stand-by arrangement") að upphæð 122 millj. SDR. Skilyrði Sjóðsins eru m.a. þessi:

- Kenya breyti stefnuna á iðnaðarmálum frá því að framleiða innanlands sem mest (til að spara gjaldeyri) yfir í það að hlúa að útflutningsgreinum
- Minnka útlán til ríkisins og auka útlán til einkaframtaksins.
- Afnema í skrefum takmarkanir á sviði utanríkisviðskipta og gjaldeyrisverslunar.

(Heimild: IMF Survey. 3.9.´79)

21.8.´79 VESTUR-SAMOA

IMF veitti Vestur- Samoa yfirdráttarheimild að upphæð 750 þús SDR. Skilyrði Sjóðsins eru m.a. þessi:

- Eftirspurn verði verði minnkuð (þ.e. kaupmáttur rýrni)
- Gengið verði fellt
- Vextir verði hækkaðir
- Útlán til innlendra aðila verði minnkuð

(Heimild: IMF Survey, 3.9. ´79)

Nokkrar upplýsingar um Vestur-Samoa (skv. The Statesman´s Yearbook 1978-79):

Íbúafjöldi: 151 þús.
Þjóðartekjur á mann: $ 350.

24.8.79. NICARAGUA.

IMF ákvað að lækka yfirdráttarheimild (skv. Compensatory Financing) til Nicaragua, eftir að nýir valdhafar tóku við stjórn landsins þar. Lækkunin nemur 50%, eða frá 34 millj. SDR niður í 17 millj. SDR. Ástæður sem voru gefnar eru þær, að IMF reyndist ókleift að fylgjast með framkvæmd, efnahagsrefnunnar, sem fyrrverandi stjórn (SOMOZA) skuldbatt sig að framfylgja.

(Heimildir: IMF Survey 3.9.79 og Le Monde Diplomatique, sept.79.)

Nokkrar upplýsingar um ástandið í Nicaragua:

- 2000.000 flóttamenn á leiðinni heim frá nærliggjandi ríkjum
- nokkrar borgir í rústum eftir loftárásum SOMOZA-hersins
- hungursneyð yfirvofandi.

Þessar fréttir sýna glöggt, að sjóðurinn hefur með ráðgjöf og fjárhagsstuðningi aukið og viðhaldið frelsi alþjóðlegra auðhringa í milliríkjaviðskiptum á kostnað verkafólks. Sjóðurinn hefur unnið markvisst að því að sníða gömlu nýlendustefnunni nýan búning. Sjóðurinn kallar það nú aukna verkaskiptingu milli þjóða þegar stóru iðnríkin, Bandaríkin, Bretland, V-Þýskaland, láta greipar sópa um auðlindir þeirra landa þar sem iðnþróun er skammt á veg komin og misnota ódýrt vinnuafl þeirra. Þetta á líka við um okkur. Okkar hræfni, fiskurinn, er flutt úr landi lítt unnið. Nú er fyrir dyrum stóraukin aðstoð fjölþjóðlegra auðhringa í aðra meginauðlind okkar, vatnsorkuna. Við höfum þegar fengið forsmekk af orkuarðráni þessara auðhringa. Nægir þar að minna á álverið í Straumsvík. Mættum við frábiðja okkur "frelsi, ráðgjöf, fjárhagsstuðning og verkaskiptingu" Alþjóðagjaldeyrissjóðsins.

---

frh. af bls. 6

## Um alþjóðagjaldeyrissjóðinn



Svavar Gestsson, lofaði undirrituðum að slík skjöl yrðu birt, þetta loforð var m.a.s. gefið í "beinni línu" hljóðvarps, í áheyrn þúsunda manna. Svavar sveik þessi loforð og hafði ekki fyrir því að veita almenningi hið minnsta innsýn í samskipti landsins og embættismanna við Sjóðinn, né um eðli Sjóðsins, sem tæki alþjóðlegs auðvalds.

Vbl. þakkar Elíasi kærlega fyrir þessar fróðlegu upplýsingar. Það er ekki úr vegi að minna á, að Elías hefur gefið út gagnmerka skýrslu um Alþjóðagjaldeyrissjóðinn, sem ber heitið "Í hvers þáu starfar Alþjóðagjaldeyrissjóðurinn. Skýrsla þessi er til sölu í bókaverslun Október-forlagsins, horni Frakkastígs og Grettisgötu, í Bóksölu stúdenta og í fleiri bókaverslunum. Hvetjum við lesendur til að verða sér úti um eintak í tíma.

Hér í blaðinu er önnur grein um starfsemi Alþjóðagjaldeyrissjóðsins, sem byggð er á upplýsingum Elísar. Er vakin athygli á henni.

## Hópuppsagnir

frh. af forsíðu

hafa þeir borið fyrir sig endurbætur á húsnæði frystihússins. Þeir hafa ekkert hins vegar viljað segja hversu lengi þessar endurbætur munu standa yfir.

Vbl. hefur það hins vegar eftir áreiðanlegum heimildum að ekki var gengið frá samningum við verktaka fyrr en eftir að uppsagnarbréfunum var stungið ofan í launaumslögin. Réð tilviljun að hafist var handa við endurbætur straks.

## Bætur upp og ofan

Atvinnuleysisbætur eru nú innan við 8000 kr. fyrir hvern atvinnuleysisdag eða tæpar 160.000 kr. á mánuði. Á skrifstofu Verkakvennafélagsins

Framsóknar fengust þær upplýsingar að stór hluti kvennanna sem reknar voru heim af Kirkjusandi fengju ekki bætur, þar sem makar þeirra væru með tekjur fyrir ofan lögboðið hámark - sem ekki þarf að taka fram að er skammarlega lágt.

## Þeir þurfa ekki að óttast

En hverjir eru þeir sem standa að uppsögnum á Kirkjusandi? Ögurvík hf. mun eiga þriðjung í Kirkjusandi ásamt SÍS. Ögurvík eiga m.a. Sverrir Hermannsson, fyrrv. alþingismaður Sjálfstæðisflokksins á Austfjörðum, Þórður Hermannsson o.fl. Togarakaup þeirra Ögurvíkurbræðra voru að 80% kostuð með hagstæðum lánum af almannafé. Það eru hæg heimatökin fyrir Sverrir kommisar í Framkvæmdastofnun.

Sambandið á afganginn í Kirkjusandi. Hér er því enn eitt dæmi um hvernig samvinnuhugsjónin er fótum troðin þegar um aukagróða er að ræða. Hvað heitir þetta annað en að setja peningagildið ofar manngildinu.

---

## Sjálfstæðisflokkurinn

frh. af baksíðu

þannig"-. Jæja, hér er ég og hérna er fyrirtæki til sölu og nú þarf ég gras af peningum. Að sjálfsögðu fékk hann það sem hann bað um útá andlitið, enda eiga þeir gras af seðlum í Jóhannesarborg, þar sem gull og demantar ganga í stríðum straumi uppúr jörðinni. -"Mergurinn málsins er sá, að negrarnir í Suður-Afríku eru af einhverjum ástæðum aftarlega á þróunarbrautinni eins og meiripartur negra á allri Afríku og tilgangslaust er að bera þá saman við Bandaríkjanegra eða forfeður þeirra fyrir 200 árum. Þroskastigið er yfirleitt mjög lágt og þeir eiga svo bágt með að tileinka sér tækni, að einföldustu tæki eyðileggjast í höndunum á þeim. Af því leiðir að meiripartur þeirra getur aðeins unnið sáraeinföld störf, sem þá eru illa launuð."

-"Ókunnugum finnst ugglaust furðulegt að sjá, hvernig negrarnir í námunum matast. Hlass af mais er soðin í stórum kerjum og við hrúguna standa menn með skóflu og moka í skálar sem negrarnir halda á. En þeir eru hæðstánægðir með þetta og fitna yfirleitt einhver ósköp meðan á þessu stendur". - "Svo við víkjum að öðru, er gott að reka fyrirtæki í Suður Afríku? Já, og það er meðal annars vegna þess að efnahagskerfið er heilbrigt og stöðugt. Verðbólgu er haldið undir 10%, en fyrir tveimur árum var hún komin upp í 17% og þótti ófært að halda þannig áfram. Þá var gripið til markvissra aðgerða, sem höfðu í för með sér talsverðan samdrátt og atvinnuleysi".

-"Ég hef stórum meiri áhyggjur af pólitísku og efnahagslegu ástandi á Íslandi en Suður Afríku." -"Suður Afríka er mjög kapitalískt ríki." -"Skylda er að greiða 0,8% af launum í atvinnuleysistryggingu og allir launþegar gera það. En menn fá ekkert úr sjóðnum fyrr en eftir 2 mánaða atvinnuleysi og þá aðeins fjórðung af þeim launum sem þeir höfðu á aðeins sex mánuði. Sem stendur er lítið atvinnuleysi meðal hvítra, en talið er að nálægt eina milljón svartra vanti vinnu. En þeir eiga að fá atvinnuleysisbætur eins og hinir". -"Þeim (svertingjunum, innsk. Vbl.) er sama þó þeir búi svo þröngt, að það er næstum hver ofan á öðrum og hugsa yfirleitt allt öðruvísi en við."

- "Yfirleitt þykja kristnir negrar skárri starfskraftur og negrar taka að sumu leyti fram þeim hvítu til dæmis við mjög einhæf störf og í námum." -"Í hvíta samfélaginu er kirkjan geysisterkt afl og kirkjusókn mikil." - "Í frjálsu hagkerfi ber hinsvegar hver einstaklingur ábyrgð á sjálfum sér og sínum. Hann verður að leggja sig fram og best hann má, en um leið er hann hvattur til dáða."-

## Nýnasisminn

Þetta er ófögur lestning. Gömlu nasistarnir hér á landi sáu sinn skásta kost að styðja Sjálfstæðisflokkinn eftir afhjúpum Hitlers. Enn þann dag í dag eiga skoðanir þeirra hljómgrunn, og alvarlegt umhugsunarefni er hversu oft þær ber fyrir augu nú í seinni tíð, einkalega úr herbúðum Sjálfstæðisflokksins. Sumir kalla þessar skoðanir nýnasisma en stuðningsmenn þeirra hafa tilhneigingu til að velja þeim önnur hljómbetri heiti. En innihaldið er samt við sig. Þangað sækir verkafólk ekki annað en kúgun og misrétti.

VBL Áskrift greiðist á gíró 12200-9

1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskr.: - 1750
Til útlands : - 5500
Stuðningsáskr: - 5000



## Pétur Pétursson, þulur, skrifar:

# Margar sortir úr sama deigi

Nú líður að því að gengið verði til kosninga og valdir fulltrúar á Alþingi. Ef dæma skal eftir fjölda frambjóðenda mætti ætla að nú væri margra kosta völ. Sé betur að gáð og reynsla undanfarinna ára höfð í huga mun sannast að hér á við niðurstaða er eftirfarandi saga sýnir: Hjón ein voru á heimleið úr kaffiboði. Var þar veitt vel og rausn mikilli Ótal kökusortir af mismunandi stærð og lögun bernar fram á fögrum diskum. Gestum veittist erfitt að velja af gnótt þeirra er fram var borin. Á heimleið úr boðinu varð þeim hjónum er heimboðið sóttu tíðrætt um veislugesti og gestgjafa. Bóndinn sagði við konu sína: Aldrei hefi ég setið annað eins boð. Ekki séð svo margar kökutegundir og misjafnar bornar fram. Kona hans játar því, en bætir við: Tókstu ekki eftir því að þetta var allt bakað úr sama deiginu.

Ungu kjósendur, er nú ganga í fyrsta sinn að kjörborði, er mikill vandi á höndum að grynna á því sem fram er boðið, svo ólíkt sem það virðist og andstæðukennt. Fyrir þá sem lengi hafa fylgst með umræðu og þróun atvinnuhátta og stéttaskiftingu snýst umræðan öll um aukaatriði. Þegar til á að taka reynast flokkar þeir er bjóða fram allir hnoðaðir úr sama deiginu. Af ýmsum ástæðum eru kökuskraut þeirra með misjöfnum hætti en allt ber þó að sama brunni: Ætlun þeirra er að ná tökum á ríkisvaldinu og nota það auðs og eignastétt til framdráttar og sjálfum sér til dýrðar.

Sameiginlegt er það öllum flokkum að snúa sér einkum til láglaunafólks og lofa því að byrðar þess séu léttar. Að fenginni reynslu vita þeir sem fylgst hafa með málum að slíkt er ógerningur. Eðli auðvaldsskipulags er arðrán. Gróði myndast eigi með öðru móti. Og hvern á að arðræna af ekki fjöldann. Vinnulýð þann er á ekkert annað en afl handa og hugvit. Framleiðsla í auðvaldsskipulagi miðast því við tvennt. Það eitt er framleitt er skilar arði í hirzlur auðstéttarinnar og boðið á markað sem spurt er eftir af þeim sem peninga á. Og þegar rætt er um peninga og verzlunarviðskipti má gjarnan hugleiða, að einmitt þeir hinir sömu og ræða hvað fjálglegast um jafnan atkvæðisrétt allra í kjörklefa, snúast öndverðir gegn öllu tali um jafnan rétt manna til lífsgæða. Ungum kjósendum er hollt að hafa í huga að daglega fer fram atkvæðagreiðsla, þótt eigi sé í kjörklefum við alþingiskosningar. Í kjörbúðum og hvar sem viðskipti eru stunduð standa kjósendur hlið við hlið. En þar verður annað uppi á teningnum að því er varðar atkvæðaseðla. Meðan einn kýs nauman skammt og á úr fáu einu að velja sökum þess hve hann ræður fáum atkvæðaseðlum á þeim vettvangi velur annar að vild það sem hugur girnist.

Mestu varðar að ungmenni sem ganga nú fram á vettvang stjórnmála endurnýi umræðugrundvöll verkalýðsbaráttu. Svipta hulunni af postulum stéttasamvinnu og undanhalds. Fylki liði til aukinnar þekkingar á þjóðfélagsmálum og horfi fagnandi móti þeirri tíð er alþýða rís úr öskustó og þekkir sinn vitjunartíma. Veit að það er hún sem með virku starfi hugar og handar framleiðir allt það er til skipta kemur. Auðstéttin tilheyrir skipulagi sem senn hefir runnið skeið sitt á enda en brýst nú með berserksgangi. En áður lýkur á sjálfsagt eftir að halda margar framboðsræður og bera fram ókjörin öll af kökusortum, sem allar eru bakaðar úr sama deiginu.

Pétur Pétursson þulur.



Pétur Pétursson.

# Er stefnt í varanlegt atvinnuleysi hérlendis?

Um þessar mundir standa yfir samningar við Breta um að koma á fót vinnslustöðvum og frystigeymslum þar í landi. Það má geta sér til, að siglingarnar nú hjá togurum Ögurvíkur séu liður í slíkum samningum. Í einu dagblaðanna var t.d. fyrir nokkru viðtöl við fulltrúa fiskkaupenda í Fleetwood, en þeir lögðu afar mikið upp úr reglulegum löndunum íslenskra togara þar í landi.

Þetta eru einungis getsagnir enn sem komið er – en af satt reynist og siglingar með afla færast enn í aukana, þá má ljóst vera að íslenskir auðherrar ætla enn að krækja sér í hámarksgróða, flytja aflann óunninn út, komast inn á markaði í Efnahagsbandalagslöndunum – allt á kostnað aukins atvinnuleysis á Íslandi, minni þjóðartekna og verri lífskjara almennings.

# Aðgerða er þörf

Í frystihúsum um allt landið er farið með verkafólkið eins og tuskur. Í hvert skipti sem hráefnisskortur verður, siglingar, stórar viðgerðir o.fl. er verkafólkinu sagt með viku fyrirvara að sitja heima. Kauptryggingin hefur ekki reynst sú stoð sem ætlað var, því henni er yfirleitt sagt upp um leið.

Á skrifstofu Framsóknar var okkur sagt að félagið hefði engar ákveðnar aðgerðir í huga vegna uppsagna á Kirkjusandi og víðar. Eina sem það gæti gert væri að mótmæla og senda beiðni til Verkamannasambandsins að taka málið fyrir.

Það er því nauðsyn að verkafólkið í frystihúsunum taki upp umræðu um raunhæfar baráttuaðgerðir. Það er kominn tími til að spyrna við fótum. Við höfum engar patentlausnir, en eitt hefur alltaf gefist vel – umræða fólksins sjálfs, samstaða og barátta. Ekki treysta bara á forystuna, hún er lítils megnuð ef það er ekki fólkið sem ræður ferðinni.

# Sjálfstæðisflokkurinn

## – frjálshyggja – nasismi – kynþáttakúgun

Í ræðu fyrir allmörgum árum varð formanni sjálfstæðisflokksins að orði, að í húsi flokksins væru mörg herbergi, og það ættu heimili sitt menn með mismunandi skoðanir. Víst er, að flokkinn styður fólk með mismunandi skoðanir og það sem athyglisverðara er, fólk sem hefur andstæðra hagsmuna að gæta. Aðalatriðið er að ráðamenn í flokknum eru ekki sérlega spenntir fyrir gróðraskerðingu sem kjarabætur hafa í för með sér. Í þessari grein var ekki ætlunin að fara náið út í þá sálma heldur að vekja athygli á skoðunum sem lesbók Morgunblaðsins sér ástæðu til að kynna í viðtali nú nýverið.

### Suður-Afríka „Land frjálshyggjunnar“

Í viðtali lesbókarinnar tíundar Hilmar nokkur Kristjánsson, "athafnamaður", skoðanir sínar á þjóðmálum, kosti þess að vera hvítur, meðfædda heimsku annarra en hvítra manna o.fl. Í viðtalinu gefur m.a. að líta eftirfarandi setningar:

– "Hvítir og svartir éta hvor úr sínum poka og vilja báðir hafa það

frh. á bls. 7



Þó ég þekki ekkert til, hef ég tilhneigingu til þess að efast um ýmislegt, sem þú segir, — ekki sízt eftir að hafa nýlega séð sjónvarpsþátt um þjóðir Afríku og þar á meðal negrana í Suður Afríku. Kannski eru þeir ekki mjög greindir, en ekki þarf að meðhöndla þá eins og skepnur þar fyrir. Í myndinni var til dæmis sýnt hverfi bessafjalakofa, sem svartir höfðu byggt — líklega í ónáð. Þá var bara komið með jarðýtur og öllu mokað í burtu. Við förum ekki einu sinni svona illa með tófuna; við látum þó grenin hennar standa. Það sem ég á við er það, að ólíkar þjóðir verða að vera jafn rétthaár, enda þótt þær búi við aðskilnaðarstefnu.“

„Ég held að menn á Vesturlöndum skilji þetta ekki vel. Ég hef sagt áður, að þetta er náttúrufólk með viðhorf, sem eru ekki í námunda við okkar viðhorf. Ef slíkt fólk er glaðast í sinni sál þegar það fær að búa á frumstæðan máta og á sama hátt og forfeður þess bjuggu og lifðu, — á þá endilega að kenna því á tölvur og láta það vinna í bönkum eða verksmiðjum frá kl. 9—5?

öðrum nágrannalöndum, sem kysu að vera aðilar að slíku sambandi.

„Kannske er það ekki svo mjög sjálfur aðskilnaður hvítra og svartra sem gagnrýndur hefur verið, heldur það, að þeir svörtu fái lítil tækifæri til að hefja sig upp úr öskustónni, eða komast til þroska.